J. F. Horster.

Stutt ágrip
af þeirrð

Heilögu
Rittningu

# Stutt ægrip
af þeirre
# Heijlögu Rittningu,
hvorted
hefur iñe ad hallda þad Merkelegasta
sem vid hefur bored fraa Sköpun Heimsens,
iñ til 100 aarum
## Efter Christi Fæding,
fyrst i Dönsku Maale samanskrifad
af
## Hr. J. F. Horster.
og framsett
## i einföldum Spursmaalum,
til Gudlegrar Dægur=Stittingar froodleiks
og Idkunar sierdeiles fyrer þaa ungu
og uppvaxande,
og nu a Islendsku yfersett af
A. E.

Prickt i Kaupenhafn af G. C. Berling.
1774.



Þeinck a þiñ Skapara i þinum Ungdoome, adur en þeir vondu Dagar koma yfer þig, a hvorium þu seiger þad þocknast mier eige.

Drotten lætt þitt Heijlaga Ord vera lioos a mijnum Vegum, og lampa Foota miña.

Drotten keñ þu mier ad giøra epter þijnum Villia, þvi ad þu ert miñ Gud, þiñ godur Ande leide mig a riettum Veje. Amen i Jesu Nafne. Amen.



# Innehalld Bæklingsens.



Imanuel.



# Imanuel.

## Fyrste Høfud-Partur.
### Um þaa fyrstu Tveggia þusund aara-tijd epter Skopun Veralldar.

## Fyrste Capitule.
### Um Forfedurna aa þeirre fyrstu þusund aara-Tijd.

1. Af hvada Book eru Historiur þessar teknar?

Af Bibliunne edur þvi H. Guds Orde, hvort ed klaarlega hondlar um allt hvad vid hefur bored aa dogum Forfedra vorra, og sierdeilis Gydinga, hvoria Gud hafde utvaled til sitt eiged Foolk. (5 Mosise B. 4 Cap.)

2. Hefur þu nockra Nitseme af ad vita þetta?

Jaa, þegar eg vil efterfylgia dæme þeirra froomu i ad Ottast og elska Drotten, samt hata

ta og fordast allt Ogudlegt athæfe, hvar til Drotten gefi siñ Anda og sina Naad fyrer Jesum Christum! (Ords Qvid. 4 Cap.)

3. Hvad leinge stood Heimureñ aduren Christur fædest?

Hierum 4000 aar, hvort ed kallast þad gamla Testamente. J byrian þeirrar fyrstu þusund aaratijdar hefe eg ad merkia Skopunena, og Syndafalled þarnæst þær goodu og vondu Ettkvisler.

4. Hvør hefur skapad alla hlute?

Sa þrij-eine Gud sem sialfur hefur vered fraa Eilijfd, og varer til Eilijfdar, skapade fyrer sitt H. Ord, Himen og Jord og allt hvad þar er iñe, af eingu Efne, hvarfyrer hans Viisdooms fulla goodgyrne og almaattur liooмar og lijser i ollum aattum. (Moses B. 1 C.)

5. Skapade Gud Mañkined af nockru Efne?

Hañ skapade Adam af Jardar-Leiire, og blies lifande Anda i hans Naser, þarnæst skapade hañ eina Kviñu af Adams Rifbeine, þar hañ svaf sem kalladest Eva, og þesse tvo voru prydd med sialfs Guds eigen Mind, þarmed vijs og Heilog, Heilbrigd og Odaudleg, hvort þeirra stand kalladest Sakleisesens stand. (1 Moses. 2 Ephes. 4 Cap.)

 6. Hvad

6. Hvad lærer þu af Sköpuneñe?

Ad ſaa allsvalldande Gud er ſierdeiles Milde-Rikur vid os Þverbrottnar Mañeſkiur; þetta ſkulld bindur os þeſs meira ad elſka hañ og hlyda, og treiſta honum i ollum hlutum, med audmykt og einingu Truariñar. (Predik. 12 Cap.)

7. Hvaraf ſkillde Adam og Eva næra ſig?

Þegar þau efter Bodan Drottens dyrkudu allden Garden Paradiis, lofade hañ þeim ad eta af ollum avoxtum, utan ſkillnings tried goods og ills ſkilldu þau ecke ſnerta þvi had være Daudaſok, þeſsvegna erum vier vorum Gude og Skapara allrar Hlijdne ſkilldugir. (1 Moſis 3 Cap.)

8. Voru þau þaa ſinnm Skapar Hlijden?

Nej, þvi midur! þau lietu ſig tilleida af þeim banvæna Hoggorme ſem ſagde til Evu, þarſem þid eted af þeſſu Trie, ſkulud þid Gude liik verda, hvorsvegna þau ÿfer ſig droou Drottens hefndarfullu Reijde. (1 Moſ. 3 Cap.)

9. Urdu þau þaa viiſare efter æggian Höggormſens?

Þau urdu viis i þvi vonda en einfolld i þvi gooda, ſo þau villdu ſkijla ſier fyrer Drottne, hvorsvegna þau miſtu hañs herlegu Mindar og urdu Dioflenum lijk. (1. Moſ. 3 Cap.)

10. Straf-

10. Straffade Drotten þau framveiges?

Vissulega! Eva skillde fæda sin Born med Harme, og Adam skillde erfida, og i Sveita sijns Andlites eta sitt Braud, ĩtil þau dæu og jrdu ad Jordu aftur hvar þau voru Afkomeñ, so fædunst og so vier þeirra Afkvæme med eirnre ĩgrooeñe Lyst til at syndga, hvort ed kallast su arfalega Synd, þessvegna erum vier adskilianlegum Naudum Siukdoomum og Daudanum undorpner, þvi eitt roted Trie getur ecke bored goodan avoxt. (Ephes. 2. Matthæi 7 Cap.)

11. æ hvad miñer Syndafalled þig?

Eg lære þar af, allt þad vonda er iñkomed i heimeñ fyrer þær skulld ad vorer fyrstu Forelldrar misbrukudu siñ frijvilia, so advorunst vier ad hlijda Gude i ollum hlutum, samt fordast allar Diofulsens æggianer og ærærser, hvor ad er vor Svaren Ovinur. (1 Pet. 2. 12.

12. Sieck þesse Offooknare nockurt Straff?

Jæ, Gud hiet ad Kviñunar Sæde skillde i sundur myria Hoggormsens Hofud! þad er: Guds Sonur skilde verda Maňessia, og fædast af eirnre Joomfru, hertaka Diofulen og bynde hañ med Mirkaraña hleckium, þetta er þad fyrsta Evangelium, og er uppfyllt i Jesu Christo. (1 Mos. 3. Hebræ. 2 C.) 13.



13. Trudu vorer fyrstu Forelldrar þessum gledelegum Bodskap?

Jaa vissulega! Eva trude ad heñar fyrste Son Cain være saa fyrerheitne Heimsens Endurlausnare, og marger af Forfedurunum gaafu Gude siin Offur uppaa sama Kviñuñar Sæde. (1 Mos. 4. Hebræ 11 Cap.)

14. Um hvørn er þetta ad lesa Sierdeelesleg a?

Um Abel, sem var Adams añar Sonur, hvørs Offur fyrer hañs Tru þooknadest Gude vel. Þessara vorra Forfedara Footsporum ber os ad efterfylgia, og setia alla vorra Tru og Tilliid til Guds stooru Miskunseme i Christo Jesu vorum Drottne. (1 Petri 1 Cap.)

15. Hvørier voru Patriarkar a þeirre fyrstu Þusundaaratyd?

| | | |
|---|---|---|
| Adam, | Kenan, | Enok, |
| Seth, | Mahalaleel, | Methuselah, |
| Enos; | Jared; | og Lamech Saxfroome. |

Øllum þessum gat Adam fortaled Syndafalled, þvi hans Alldur vard 930 aar. Methuselah lifde leingst af øllum, hvørs Alldur vard 969 aar, han andadest sama aar sem Slooded kom yfer Jordena. (1 Mos. 5 Cap.)

16. Hielldu þeir nockra openberlega Gudsþioonustu?

Jaa, þeir byriudu þar med i Enos Tiid, ad

ad þeir þar med þess betur giæte hia sier hallded Guds Kieñingu, og ad þeir efter advaran og avijsan, vissu ad giora greinarmun a vondu og goodu. (1 Mos. 5 Cap.)

17. War þar nockur sierdeiles froomur Madur?

Enok, Sonur Jareds, sem spade um þad Straff þar skillde yfergaanga þaa vantruudu Kinslood, hañ talade med Gud og geck a hans Vegum, hvorsvegna hañ vard lifande til Himens uppnumen, aar efter Skopun Veralldar 987, til Truar Stirkingar og Hugsvoolunar ollum truuduum Saalum. (1 Mos. 5 Cap.)

18. Voru þar marger yller og Ogudleger?

Jaa þvimidur. Fraa Cain, sem misunte Brooður sinum Abel vinaattu Drottens, hvorn hañ sloo i hel, aan þess ad hafa Guds hootaner i fersku miñe, þar fyrer neitade han fyrst Synd siñe, og þarnæst orvænte sier Guds Naadar, hvosvegna hañ ferdadest laangt burtu i eirn añan Stad, af honum eru þeir komner, sem sijdan kolludust mañaña Syner. (1 Mos. 4 og 6 Cap.)

19. Var nockur af hans Ætterne sierdeiles nafnkuñigur?

Lamech hiñ Ille, hvor ej alleina took tvær Hustrur til Eckta, helldur ogso drigde tvofallt



Mord.' Afkvæme þeirra Ogudlegu er froo-
mum til Hneixlunar. (1 Mos. 4 Cap.)

20. Hvada ämiñing takur þu hier af?

Ad eg ecke Iduglega skal lifa i Synd og
vonsku, helldur af fremsta megne strijda æ
moote þeim fyrsta Lost, ad Vanen ecke faae
Yfirhond, hvorium äñars fylger Forherdin-
gen, og sidan efter Orvæntingen. Gud styr-
ke mitt æform til alls goods, þvi æn hans
Hiælpar megna eg eckert gott ad giora.
(Johannes 15 Cap.)

## Aññar Capitule.

### Forfedurner æ þeirre aññare þusundæratijd.

21. Hvörier Patriarchar Sonur efter Son
lifdu æ þeirre aññare þusundæratyd?

| | | |
|---|---|---|
| Noe, Sem, | Eber, | Serug. |
| Arphaxad, | Peleg, | Nakor, |
| Salah; | Regu; | Thara. |

Noe og Sem lifdu bæde fyrer og efter Syn-
da-Flooded. (1 Mos. 11 Cap.)

22. Hvad er ad lesa um þæ adra þusund æratijd?

Fyrst fiolgan þeirrar vondu Kinsloodar,
þarnæst Syndaflooded, samt Maññä Adskil-
nadur og Ogudlegt framferde. 23.





23. Villdu þeir Ogudlegu ecke forbetra siñ lifnad og framferde?

Nej! Gud gaf þeim 120 aar til Umvendunartijma, en þeir misbrukudu Guds Þolenmæde og Langlunderged, og lifdu i Fillerie, Ofdrepskap, Frilluliife, Ofervallde og Orietindum. (1. Mos. 6 Cap.)

24. Gögnudu þaa Efterdæme þeirra Froomu eckert?

Þad var aunckunar vert, ad og so margre Gudhrædder lietu sig yferbuga til Ogudlegs athæfes, so ad vid þeirra fraafall hrigdust þeir faaer froomer, sem jafnadarlega predikudu Guds Kieñingu um Idran og Yferboot fyrer drigdar Synder. (1 Mos. 6 Cap.)

25. Hvad aliktade þa Drotten?

Hañ villde med Vatns-Floode hreint burtsvista þeim af Jordüñe. Soddan bevijsar os, ad Synden leider ecke añad efter sig en sem Olucku og Saalartion yfer ollum þeim er vellta sier i Vonsku, Vantru og Ogudlegu athæfe i heime þessum. (1 Mos. 6. Ebr. 10 Cap.)

26. So hefdu þeir Truudu fyrerfarest med þeim Vantruudu?

Drotten kallade þa til sijn fyrer þañ tijmanlega dauda, utan alleina þan riettlaata Noa, hvorn Gud befalade ad byggia Orke-



na, hvar iñe hañ med Kvinum og Sonum sijnum, Sem, Cham og Japhet, vardveitteſt. Somuleides ſkillde hañ taka af øllum Dyrum, ſem voru under Himneñum hvørt allt ſaman fyrer Drottens Raad vardveitteſt i Ørkeñe. (1 Moſ. 7 Cap.)

27. Hvørnen kom Syndafloodeð?

Þaa Heimuren havde ſtadet i 1656 aar, liet ſaa riettlaata Gud rigna jafnadarlega i 40 Daga og Nætur, ſo Vatned ſtood 15 aalna haatt aa hæðſtu Fiollum, i hvøriu Floode aller ydrunar lauſer þverbrottner Syndarar hreint Tortijnduſt. Og Jorden vard ecke þurr fyrre en næſta aar efter. (1 Moſ. 7 og 8 Cap.)

28. Giørde þetta Flood aña rs nockurn Skada?

Jaa, Jorden var ſydan efter meir Ofrivodſom, og bar miñe aavexte eñ aadur, og þeir ſem fæddust efter Flooded, lifdu ecke halft ſo leinge ſem þeir gomlu Patriarkar. (1 Moſ. 5 og 11 Cap.)

29. Þurfum vier ad kvyda fyrer nockru ødru Syndafloode?

Nej, þegar Noe offrade Gude eitt þackætes Offur fyrer Naadar ſamlega vernd an og varatekt aa ſier og hiſke ſinu, gaf ſaa millderiſke Gud os Regnbogan i Skyen, til eins avarande Teikns, ad alldrej nockurt almeñelegt

legt Vatnsflood meir skillde koma yfer Jordena; hvort aungvaneigen er goodverkum vorum ad þaka, helldur alleina Drottens Naad og Polenmæde. (1 Mos. 9. Cap.)

30. A hvad a þetta ad miña þig?

Ad lijka sem Drotten hootar, og viist Straffar alla jdrunar lausa Syndara, so vardveiter hañ og so fyrer Naad sina þa Froomu og Gudhræddu, ja leinge skoonar þeim Ogudlegu, saker siñar Ometanlegu Polenmæde i Jesu Christo. (2 Petr. 3 Cap.)

31. Drigde Nooe nockurn Breft?

Hañ plantade eirn Viingaard, og drack sig sitt siñ so drucken, ad hañ la naken, og Cham spottade siñ Fodur, eñ Sem og Japhet geingu og logdu Klæde yfer siñ nackta Fodur. Hvarefter hañ vaknade og bolvade Cham og Canan, eñlagde Blessan yfer Sem og Japhet. Soddañ aminner Borneñ ad heidra og i vyrdingu ad hafa sijna Foreldra, og ecke ad spotta þau þoo þeim verde a i Eijnum edur odrum Breft. (1 Mos. 9 Cap.)

32. Kuña ecke Vijnsvelgiarar ad afsaka sig med Nooa?

Af hañs Efterdæme hafa þeir eingva Affsokun, þvi þad var eingen Sidvane edur vonsku Synd hia Nooa, helldur var þad eirn Mañs

 legur



legur Breiſkleike, ſo eru og ecke avyrdingar þeirra Fromu, upteiknadar oſs til Efterdæmes, helldur til advorunar. (Jacop 5 Cap.)

33. Afmaduſt mañaña Illverk fyrer Syndaflooded?

Nej þvi midur! Efterkomendurner hielldu jafnadarliga vid i þeirra vonduverkum og Ogudlegu athæfe; Jaa þvi ver! marger iñtil nærverande Stundar, vellta ſier i vonſku veralldar þeſſarar, og ſkeita miñſt um ad rækia ſiñar Saaluhialpar med ugg og Ota, og adhillaſt Drottenn efter ſkilldu og verdugleika. (1 Moſiſes 8 Cap.)

34. Hvörieraf þeſſarar tijdar Forfedrum lifdu leingſt?

Nooe vard 950 aar gamall, til Vitnesburdar fyrer hans Efterkomendum um Syndaflooded, hañ andadeſt 2 arum fyrer Abrahams Kall; Sem hvoru nockrer Kalla Melchezedek, deide a Abrahams 150 aare; og Eber efter hvorium gydingar kallaſt Ebræar, deide fyrſt 4 arum efter Abrahams Andlaat. (1 Moſes 11 Capitula.)

35. Hvad tooku þeir ſier fyrer ad giöra a Pelegs Tijd?

Þeir bygdu Turnen Babel, eñ Drottenn adſkillde Tungumaaleñ, ad, ſaa eine ecke ſkillde

þan

þan añan, hversvegna þeir adtvistrudust um allañ heimen. (1 Moises 11 Cap.)

36. Hvørne hegdudu þeir sier Sijdan?

Marger bygdu Borger og þvingudu adra under sig, og hiner adrer sierdeiles Chams og Japhets Afkvæme, fiellu Tijd efter adra til Afgudadyrkunar. (1 Moises 10 Cap.)

37. Hvada jhugan tekur þu hieráf?

Af þessu sie eg Drottens stooru Makt; ad hán getur læted Mañaña ill Raad og Anslog ad aungvue verda; eg æmiñst og so hier um ad læta Drottens Reijde tiptaner mier gæunga iñelega til Hiarta. Jerem. 25 C.)

38. Geingu Sems Ættlÿder jafnadarlega æ vegum Drottens?

Nei, i Tharas Tijd fiellu þeir fræ, og þioonundu añarlegum Gudum, hvorsvegna þeim Gudhræddu byriar ad flija og fordast allt ofmiked Samkvæme med þeim vondu, ad þeir ecke þar med sialfa sig æ tælar drage. (Josuva 24 Capitula)

39. Var Guds Ord skrifad æ þeirre tveggia þusund æratijd?

Nej, þvi þeir gomlu Forfedur kiendu þeirra Bornum og Afkvæme Drottens Bod og Befal-

 

Befalningar Muñlega. Eñ mitt a þeirre þri-
diu þusund aratijd liet Drotten Moisen by-
ria ad skrifa Rittninguna, þa Gudsþioonu-
sta vard iñstiftud i Ørkeñe. (2 Moises 19 C.)

40. Hvaraf veistu ad Rittningen er Guds H. Ord?

Af þvi hun viisar mier fullkomeñ goodan Veg til Saaluhiaalpar, og Lærdoomureñ er stadfestur a stoorum Kraptaverkum, samt fyrer vissa Spaadooma, sem eru uppfyllter. En sierdeiles og allrahelst vitnar saa Heijlage Ande i þeim, sem hlijda og fylgia Ordenu, ad þad er eirn guddoomlegur Sañleike? (Psal. 19. Johannes i 7 Capitula.)

---

# Annar Høfud-Partur.

## Edur su þridia þusund aratijd efter Skøpunheimsens.

41. Hvad merker þu ad vera sked a þessare þusund aratijd?

Fyrst um vora Forfedur, þarnæst Israels Ińleidsla i Canaans Land, þeirra Doomara og Stioornendur,

# Þridie Capitule.

## Fedurner a þeirre haalfþridiu þusund aratijd.

42. Hvørier voru þesser Forfedur?

Abraham, Isack, og Jacop, þessum veiter Drotten þa Æru ad hañ kallar sig: Gud Abrahams, Isaacks og Jacops. (2 Mosis 3 Cap.)

43. Hvad befalade Gud Abraham?

Þa hañs Fader andadest arum efter ver alldar Sköpun 2083, matte hañ saker Afgudadyrkunar, yfergefa Vine og Ættingia; hvorsvegna Drotten lofade honum, ad hans Efterkomendur skilldu fiölga og margfalldast sem Stiornur Himens, og þeir skilldu faa þad avaxtarsama Canaans Land til Eigendooms, somuleides ad af hans Sæde skillde faa fyrerheiitne Messias og Heimsens Endurlausnare fædast. (1 Moises 12 Cap.)

44. Trude Abraham þessu Heite?

Ja vissulega, jafnvel þoo hañ i langan Tijma feinge eingen Born med siñe Hustru Sara, þoo sa hañ Jesu tilkomudag med Truareñar Augum og gladde sig, þesse hans Tru reiknadest honum til Riettlætes, og hañ kalladest Vinur Drottens, hvaruppa Gud befa=



befalade ad Abraham og hans Sæde skillde umskeraſt, til Stadfeſtingar um þeirra Tru og Drottens Nadar-Sattmala vid þaa. (1 Moſ. 15 og 17. Johañes i 8. Rom. 4 Cap.)

45. Hafde hañ ecke eirn Brodur-Son?

Þad var Loth, hvorn Abraham frelſade fraa Ovinum Siinum, og þarfyrer hlaut bleſſañ af þeim Guds Kieñemañe Melkize-deck, hvort ed var ein Fyrerinindan uppaa vorn Frelſara Jeſum Chriſtum. (1 Moſ. 14. Ebr. 7 Cap.

46. Fraa hvada Olucku frelſadeſt Loth ſiidan eſter?

Tveir Einglar færdu hañ med Huſtru og Dætrum ut af Sodooma, aadur en Gud liet rigna Elld og Breñeſtein yfer þaa Ogudlegu i þeſſum og fleire Stodum. Eñ hans Huſtru, ſem þvert imoote Drottens Befalningu ſaa ſig tilbaka og vard ad einum Salltſteine. Af þeſſu maa læra, ad Drotten hefur noogleg Raad til Hegningar yfer groofum Syndurum, og liika-ſo ad frelſa og vardveita þaa enu Gudhrædda. (1 Moſ. 19 Cap.)

47. Freiſtade ecke Drotten Abrahams?

Hañ ſkipade honum ad ſlaatra og offra ſyne Siinum Iſack, hvort hañ ſtrax byrjade ad ſetia iverk, aan þeſs ad tviila um þad ſære,

ſem

ſem Drotten loſade honum, og Gud Drotten hindrade þetta hans aform, og bleſſade hañ ad niju. So þiena og allar Freiſtingar þeim Truudu til hins beſta. (1 Moſ. 22 Cap.)

48. Hvørnen Madur var þeſſe Iſack?

Hañ Ottadeſt Drotteñ ifraa Ungdoome ſinum, og maatte lijda adſkilianlegan Kroſs og Mootlætingar, hvorsvegna hañ naut Drottens ſierdeiles ſtoort Naadar og Miſkunar. Efter laangan Ektaſkap med ſiñe Huſtru Rebecka, fieck han Eſau og Jacop, hvoria hañ endelega i ſtadfaſtre Tru til Herrans loſaña veite ſiña bleſſan. (1 Moſ. 25 til 27 Cap.)

49. Maatte Jacob reina Mootgang?

Jaa. Af þvi hañ ſkilde Eſau af med þaa beſtu bleſſan, maatte hañ ſækia flootta til ſiins Moodur-Broodur Laban, a þeſſare hans Burtreiſu ſaa hañ i Draume eirn Stiga, hvor ed naade til Himens, a hvorium Gud ſtood og lagde Bleſſan yfer hañ. Af þeſſu ſie eg, ad Drotten hughreiſter ſiña Truada mitt i þeirra Mootgaunge. (1 Moiſes 28 Cap.)

50. Hvørſu leinge þioonade hañ hiaa Laban?

I 20 aar, hvareſter hañ ferdadeſt heim aptur med ſinum 2 Huſtrum Rakel og Lea, ſamt Bornum og ſtiollda ſiaar, ſem Drotten hafde gefed honum, a Heimreiſuñe gliimde hañ



hañ vid Eingelen, og Eingellen liet sig af honum (saker hans truande Bænar) yferbuga, og gaf honum þad Navn Jsrael. (1 Mois. 32 Cap.)

51. Hvad hiellt þ:ssum vorum Forfedrum vid makt i þeirra Utlendingskap?

Drottens margfalldar Huggunar rijku openberaner, sem og stadfastur Kraftur Truar þeirra um Bænheirsluna, og Frelsarans Tilkomu. Saa milderiike Gud gefe mier og sierhverium sina Naad ad efterfylgia þeim i þessum vorum Utlendingskap! (Ebr. 11 Cap.)

52. Hvørier voru Jacops Syner?

| | | |
|---|---|---|
| Ruben, | Jsasckar, | Gad, |
| Simeon, | Sebulon, | Asser, |
| Levi, | Dan, | Joseph, |
| Juda; | Nepthali: | Benjamiin. |

Af þessum eru þær 12 Jsraels Kinkvisler komnar. (1 Moise 46 Cap.)

53. Hvad er ad merkia um Levi og Juda?

Af Kine Levi eru þeir komner, sem sidan urdu tekner til Presta og Helgedoomsens Þienara, og kolluduſt Leviitar; þarfyrer orsudu Joseps Syner Manases og Ephraim i Levi og þeirra Fodursstad, hvor sin Part af Canaans Lande, vier lesum um Juda, ad af honum hafe Judarner sitt Nafn, og fraa honum

honum nidurstamar Messias edur Christur efter siñe mañdoomlegu Naturu. (1 Moises 49 Capitula.)

54. Hvad er ad lesa um Joseph?

Saker þess stoora Kiærleika sem hans Fader hafde til hañs, sovel sem og þeirra vitrana um sitt Upphafningarstand, vard hañ hatadur af Brædrum sinum, og selldur i Þrældoom til Potiphar i Ægiftalande, og Potiphars Hustru ærsijste Joseph til Saurlifnadar, hvoriu hañ aungvaneigen sinte: helldur sagde hvornen mæeg giora so mikid Ohæfu verk og syngast æ moote Gude, hvorsvegna hun æklagade hañ falsklega, ad honum þessvegna vard kastad i Fængelse. Soleides sækia þeir voondu efter ad locka þar enu froomu til Ogudlegs athæfes. (1 Mois. 37 og 39 Cap.)

55. Hvønær vard hañ laus af Fængelsenu?

Ad Tveimur ærum lidnum, þvi Drotten gaf honum Viisdoom ad utleggia Pharaones Draum um þær 7 Ofrioodsomu ærtijder, og hañ vard settur sem Herra og Hofdinge yfer allt Ægiftaland, og liet jñsafna Ofeiganlegum Riikdoome Korns og jardar ævaxtar, æ þeim goodu ærunum, og hañ sende Bod til Fodur sins og Brædra, og forsorgade þær. Hieraf mæ læra ad vier i Medlæte



te og Mootlæte adhilluſt Drotteñ og elſkum hañ, og ecke fyrer nockra veralldar mune ad reita hañ til Reiide, ſo hiælpar hañ þegar hañs Tijme kemur. (1 Moſ. 41 Cap.)

56. Var þar nockur froomur Madur i ødrum Stad?

Jæ, ſar riettlæte Job, hvorn Satan fieck leiife ad ſkilia vid Born og Aleigu, ſamt ad ſlæ hans Lijkama med Kaunum; Hans eigen Viner æklogudu hañ fyrer ad hañ Gud laſtade, hvorn Kroſs og Mootlæte hañ bar fyrſt med Þolenmæde, og ſagde: Gud gaf og Gud took, vegſamad vere Nafned Drottens ad Eilijfu, eñ ſijdan fiell hañ i Freiſtingu, og bolvade ſijnum Fædingardeige, ſamt hiellt ſig alldeiles riettlætan ad vera. (Jobs 2 til 4 it. 7 Cap.)

57. Hvada Enda feck þeſſe Freiſting?

Þegar Gud æminte hañ og ævijtade, afbad hañ Synd ſijna, og ſijdan efter mætte ſijda þungara Straff eñ ædur. Os byriar þeſsvegna jduglega ad vaka og bydia til Drottens, ad hañ æ Freiſtingar-Tijmañum vyrdeſt ad vardveita os fyrer falle, og ad vier truum og treiſtum honum alleina, þvi hañ lætur ſiña Barna Kroſs og Mootlætingar erfa eirn goodan og ſæluhiælplegan Enda. (Jobs 42 Cap.)

58. Hvørnen geck Israels Foolke i Egifta Lande efter Josephs Andlaat?

Þeirra Affvæme margfallðadest so ad sar nye Konungur Ottadest fyrer þeim, hvørs vegna hañ sette þa i Ok og Þrældoom, og endelega til sijdst streingelega bodade ad drukna oll Sveinborn. Saa hiñ Ogudlege þeinker jafnan illt, og æ allarlunder eftersæker ad underþrikia siñ Samchristen Naunga. (2 Mos. 1 Cap.)

59. Er þar nockurt Barn orded undarlega frelsad?

Moises, hvørn hans Mooder geimde i eiñum Kistel, og lagde nidur i eirn Reiirdañ. Eñ Koongsens Dootter efter Guds alviisu Raadstofun kom þar og laugade sig, fañ Barned og foostrade þad upp, þegar hønum jookst alldur og voxtur til, yfergaf hañ alla Konunglega Pryde og Prakt, og sokum Truar siñar reiste til siña underþriktu Bræðra, hvar hañ ihelsloo eirn Egeftskan Tyraña, og maatte þar fyrer flija Land og Riike. (2 Mos. 2 Cap.)

60. Hvad er hier vid ad taka i akt?

Af þessu sie eg ad i þeirre horðustu Naud, meiga Ovinerner siaulfer, fyrer Guds alviisu Raadstofun þioona hans Bornum, hvør ed i Eru og Vanæru halda sier fast til hans Loforda.

Loforda. Somuleides er hier hiaa ad merkia, ad þad drigda Mord var eirn Mañdooms Giordningur af Moise, og er ej uppteicknad ad eg skule breita þarefter, helldur vil eg fylgia honum efter i hans Tru. (Ebr. 11 Cap.)

## Fioorde Capitule.

### Israels Innleiidsla i Canaans Land.

61. Hvønær frelsade Gud sitt plaagada Foolk?

Þegar þeir alvarlega hroopudu til Drottens um Hiaalp, skickade hañ Moisen til Pharao þess Erindes ad þeir mættu faa fararleiife ad reisa burt af Egiftalande, en Koonguren var so forherdtur ad Gud sende 10 Plaagur yfer hañ; vid hvoria Plaagu lofade hañ ad sleppa þeim Israelitum, eñ þegar Neiden var yferstaden, took hañ siin heitord tilbaka. (2 Mos. 3, 8, 10 Cap.)

62. Æ hvad skal þetta miña þig?

Ad eg i allre adþreingiande Naud sæke hiaalpar hiaa Drottne, sem vissulega hiaalpar og Miskunar siinum aa þeirre riettu Tijd, hvorsvegna mier byriar iduglega og alvarlega ad audmikia

audmiúkia mig under vollduga Guds Hønd, þegar Drotten refsar mig fyrer minar Yfertradslun. (1 Petr. 5 Cap.)

63. Hvør var su seinasta Plaga?

Aller Frumburder urdu af mord Einglenum drepner um Midnættes-Stund at Egiftalande, at þeirre somu Tyd ætu Israelitarner Paaskalambed, hvørs Blood efter Drottens Befalningu vard riodrad a þeirra Dyrustafe, ad Mord-Eingellen þeßbetur kiende þeirra Hus og geinge þau fyrer By, þetta Paaskalamb var fyrermyndan uppa vorn Þolenmooda Frelsara Jesum Christum, vid hvørs bloodugañ Dauda og bitru Pynu eg er forliikadur vid Gud, og frelsadur frai æræfum Dioulsens. (2 Moiß. 12 Cap. 1 Corint. 5 Cap.)

64. Gaf Pharaon þeim fararleife ad reisa burt?

Jaa i mesta Hafte, Anno 2513, og sem Dßookuare efterfylgde þeim, eñ Drotten Klauf fabed i sundur, so Israels Lydur geck þurrum footum þar i gegnum, og Pharao med ollum sinum Striidsher drucknade. Hieraf maa siaa ad Forakt og Þvermoodska leider ej ñad efter sig, en sem illañ Enda. (1 Moises 4 Cap.)

### 65. Hvad Leidarviiser gaf Drotten þeim at Veigenum?

Drotten geck sialfur fyrer þeim i einum Skyſtoolpa at Dægen, og at Noottuñe i einum Eldſtoolpa, og þeir ferdudust bæde Noott og Dag. Af sama Skyſtoolpa talade hañ med þeirra forjngia Moisen, og af þeim Ognade hañ þeirra Ovinum. (2 Moiſ. 13 og 14 Cap.)

### 66. Hvad ſkede vid Falled Siinai?

Gud Drotten bodade þeim þar þau 10 Bodord, hvort ed kallaſt Sidaløgmaaled, og ſkrifade at 2 Stein-Toblur, hañ gaf þeim þar ogſo hañ borgarlega Riett og Kirkiu-Logen. (2 Moiſes 20. 31 Cap.)

### 67. Hvørleides vard Helgedoomunum ſkift?

J þria Parta: Sa iñſte kalladeſt þad Allarahelgaſta, i hvorium ad ſtood Sattmaalls Orken, hvørs Gull-Lok med þeim 2 Einglum at kalladeſt Naadar-Stolleñ; Sa millumſte Partur kalladeſt þad Hejilaga hvar Reikelſes-Alltared ſtood, og ſa utaſte Partur kalladeſt Forgardureñ, at hvorium Kvolld og Morgna vard offrad einu Lambe (2 Moſ. 25-27 Cap.

### 68. Hvad þiddu Fornfæringar Dyreñ?

Þau hofdu ad þiida vors Frelſara fullkomna Offur a Kroßenum, hvarvid allar Ve-





ralldareñar Synder eru forlikadar; Nadarstoollen var somuleiides fyrermindan uppa hañ, fyrer hvorn vier erum fridþægder vid Gud. Allt þetta aminer og gledur mig, ad þacka mynum Drottne og Skapara, sem fyrer Jesu holdgan og hiingad fæding hefur fullkomnad allar Fyrermindaner og Spadooma, so eg get nu þioonad honñ i Anda og Sañleika. (Ebr. 9 Johañ. 4 Cap.)

69. Protade Jsraels Børn nockurn Kostnad a Veigenñ?

Nej! Drotten gaf þeim daglega Manna edur Himna Brauded til Fædu, hvort ed var hviitt ad asiindum, og smackade sem Hunangsseimur, og i Naud Bergvatn ad drecka; Þeirra Klædi og Skoor slittnudu ecke helldur a Veigenum, þoo mogludu þeir jafnan, þeir tilbadu ogso eirn Gullkalf vid Sinaj, af þessu sie eg Mañeskiuñar saurvitsku og Oþacklæte, a moote Guds Ometanlegre Polenmæde og Goodgyrne. (2 Mos. 16, 17 Cap. 1 Cor. 10 Cap.)

70. Þeir mattu ferdast 40 ar i Eydemørkena?

Pad kom sig þaraf ad þeir mogludu, og trudu ecke at Gud giæte gefed þeim Sigur yfer þeim Cananitsku Kiempum; jafnvel þoo Drotten allareidu hafde eydelagt marga af

 

Ovinum Peirra. Hvors vegna þeir gomlu Vantruudu feingu þad Straff ad deya i Eydemorkeñe. (2 Mos. 17 og 4 Mos. 14 Cap.)

71. Hvørnen geck til med þad stoora Upphlaup?

Korah og fleire Levitar voru Ofornægder med ad Aron, Moises Brooder, var orden ypparste Prestur, hvar fyrer þeir giordu Upphlaup, eñ Gud liet Iordena svelgia þaa lifande, og þaa þeir hiner adrer mogludu sydan efter, giorde Drotten ad Arons Stafur Blomgadest aa eirne Noottu, og bar fullþrooada aavext. (4 Mos. 16, 17 Cap.)

72. Komu þeir Moises og Aron iñ i Canaans Land?

Nej, þvi þeir hofdu saker Vantruar ecke helgad Drotten fyrer Israels Bornum, þaa þeir mogludu fyrer Vatn i Kádes, hvert ed aaminñer eirn og sierhvorn ad hallda fast vid sijna Tru, og gaanga forsiaallega til verks, ad vier ej uppaa sijdkasted missum þad eilyfa gooda, sem vier hofum leinge eftersookt. Somuleides er hier ad merkia, ad hiaa Drottne er eingeñ Mañgreinar aalitur. (4 Mos. 26 Cap.)

73. Møgludu Israels Børn yfer þessu Manna?

Þesse daglega Fæda mislijkade þeim umsijder, hvors vegna Drotten sende glooande

Hogg-

Hoggorma a medal þeirra, sem med þeirra Eitrudum hala stungu Folk til Dauda, þarefter liet hañ Moisen uppreisa eirn Eyrorm hvorier, sem sau uppa þañ feingu aungan Skada. Þesse Eyrormur var ein Fyrermyndan uppa vors Frelsara Jesu Krossfestijngu. (4 Mos. 21 Johañ. 3 Cap.)

74. Hvøria groosa leste drigdu þeir efter þad?

Þeir drigdu Saurlifnad med þeim Mooabiitum, og tilbædu þeirra Afgud, hvors vegna marger fyrerfoorust; Eñ þegar Presturen Pinehas af christelegre Umsorgun giegnum stack tvær lauslætar Mañeskiur, stilltest Plaagañ. (4 Mos. 25 Cap.)

75. Feingu þeir þad fyrerheitna Land?

Josuva, sem þeirra Herra og Foringe, iñtook þad med skorpum Sverds Eggium, og skifte þvi a med al þeirra. Hier af sie eg ad Drotten uppfiller oll siin Heiit og Lofañer, jafnvel þoo þad syneft ad draga leinge undan. (Joosuva 12, 13 Cap.)

76. Skiedu þar nockur Kraftaverk a þeirre somu Tijd?

Ja adskilianleg: Israel geck þurrum Footum igegnum aana Jordan; Murañer i Jerikoo hropudu i Grund nidur, og Soolen stood kirreirn heiilan Dag, so þeir feingu syna moot-



mootstodumeñ yferuñed. Allt þetta kieñer oss Guds stoora almaatt, hvørs vegna oss byriar ad ottast hañ og priisa. (Josua 3, 6, 10 Cap.)

77. Hvad illt hafde Achan giørt?

Hañ hafde stoled, hvørsvegna Josua aaminte hañ ad gefa Gude Dyrdena, og ecke ad dilia Synd sina; hvørsvegne hañ vard dæmdur ad griitast ihel. Ach: hvad er þoo liige og þioofnadur eirn anstiggelegur hlutur fyrer Drottne, og Mañeskiuñe hiñ meste skade! (Josua 7 Cap.)

78. Skickudu Israels Børn sier vel i Canaans Lande?

Nei þvi midur! þaa þeir Ellstu voru burtdauder, fiellu þeir hiner adrer fraa til Skurgodadyrkunar, jafnvel þoo Drotten liete þaa oft og morgum siñum aamiña; hvørsvegna þeir urdu underþrikter af þeim, hvørra Skurgode þeir tilbaadu, hvørt ed voru þeirra makleg maalagiolld. (Doom. 2 Cap.)

79. Urdu þeir þoo Stundum frelsader?

Þegar þeir umvendudu sier og leitudu Yferbootar, uppvakte Gud þeim Doomara, fyrer hvøria hañ frelsade þaa titt og morgum siñnm, eñ efter þessara Dauda, fiellu þeir hiner adrer jafnañ fraa og urdu straffader. (Doom. 2 Cap.)

80. Hva-

80. Hvada ihugan tekur þu hieraf?

Illsku gyrne vors Hierta, hvort ecke leinge getur þolad gooda Daga, og þar hiaa forak-tar allar tiltaner Drottens; Somuleides sie eg hieraf, hvorsu millderiikur og naadugur Gud miñ Skapare er, sem ecke alldeiles afmaaer og eideleggur, helldur sender þeim enu ydran-de Syndurum sina naadarfulln Frelsan. (Esai 3 Cap.)

## Fimte Capitule.

### Um Doomarana i Israel og þria Rijkes-stiorn-endur.

81. Hvørier voru besser Doomarar?

| | | |
|---|---|---|
| Othnie, | Abimeleck, | Elon, |
| Ehud, | Thoola, | Abdon, |
| Samgar, | Jajr, | Samson, |
| Debora, | Jeptha, | Elj, |
| Gideon; | Ebzan; | Samuel. |

Þessara Doomara stiornunartijd strecker sig yfer 300 aar.

82. Hvad er ad lesa um Othniel?

Drottens Ande var yfer honum, so hañ frelsade þaa Israeljtar fraa Þrældooms-Ok



þeirra Syrlenſku, eñ efter hañs Fraafall lietu þeir ecke af ad giora illt fyrer augliite Drottens, þeir giftu ſig med Afguda-Dyrkurum, og þioonudu Skurgodenu Baal. (Doom. 3 Cap.)

83. Hvørier plægudu þa ſijdan?

Gud ſtirkte þa Moabiitar a moote þeim eñþa þeir tooku, ad andvarpa þaryfer, uppreiſte Drotten Ehud til Doomara, hvor ed iheliſloo Konung þeirra mootſtodu-maña, og þar vard Fridur og Eindrægne i 80 aar. Hier af er ad merkia, ad Fridur og Oofridur kiemur fraa Drottne og fellur til æbata fyrer þeim froomu og gudhræddu. (Doom. 3 Cap.)

84. Hvad fyrer ein nafnkuñig Kviña liſde a þeſſare Tijd?

Þad var Ruth, ſem took gydingaña Religion og iñgieck Ektaſkap med Booas, vid hvorium hun Ol Obed, hvor ed var Fader-Fader Daviids. Soddan fyrer fram̃ heidingſkar Mædur anfæraſt i Jeſu-Ættar tolu, þvi hañ ſkillde ogſo endurleiſa Heydingiana. (Ruths 1. 4 Cap.)

85. Hvør var Deboora?

Ein Spaamañiña, ſem fyrer Barak utdreif þa Canaanitar, hvorier ed ſaker vonſku Iſraelitaña, hofdu feinged yferhond. Hvarefter

ter hun saung Drottne eirn fagrañ Loffaung; til Glede og Hugsvolunar fyrer mig og sierhvorn, ad vier þockum Drottne allsvalldanda þegar vier frelsust af einu edur ødru Faare. (Doom. 4. 5 Cap.)

86. Feingu þeir añars fleirie Oviner?

Þeir Midianitar plægudu þa hardlega; hvorsvegna þeir bædu aftur, og urdu straffadar af einum Spæmañe. Eñ Gud sette Gideon yfer Foolked til Hertoga, hvor ed fyrst eijdelagde Baal, og sloo þeirra mootstødu Meñ. Soleides frelsar Drotten eññu, þegar vier afstondum alla siaalfrædugа uppfundna Afgudadyrkan. (Dom. 6. 7 Cap.

87. Hvørnen geck þad til med Abiimelek?

Þesse ihelsloo sin eigen Brooder og took Koongdoom, eñ Drotten uppæste lyden a moote honum. So þegar Abimelek, villde temia þa, kastade nockur Kviña einum Millnusteine, sem sundurknosade hans Hofud. So Ovart kemur oft Guds Straff til Hegningar, os ødrum til Advorunar. (Doom. 9 Cap.)

88. Hvad er ad lesa um Jephta?

Hañ giorde aan Hugleidingar þad ſære, ad þarsem hañ yferjñe þa Amoritar, skillde hañ offra þad fyrsta sem mætte hònum fra hans Huse þa hañ kiæme heim; hvort honum til



stærstu Hrigdar traff sig til ad hans einasta Dotter mætte hönum. Af þessu vil eg læra, ad vera forsiaall i minum Heitordum, ad þau ej sijdan kome mier til angurs, helldur ad eg mætte med Glede og goodre Samvitsku uppfilla þau lijkasem þad H. Sære eg hefe lofad Gude i Skyrneñe. (Doom. 11 Cap.)

89. Hvad er ad lesa um Samson?

So leinge sem hañ forvarade sitt Hofud-Har Oskaddad, var hañ furdu sterkur, og eydelagde marga af þeim Philisteis, eñ þegar hañ openberade þeña Heimuglekleiika fyrer Skiækuñe Dalilea, sem añars var af hans eigen Ovinum tilkeift ad faa hans Har afrakad, hvort heñe tookst harla vel, þarefter stungu þeir bæde hans Augu ut, og bundu hañ med Hleckium, tilsijdst reif hañ eitt Hus i Gruñ nidur, hvariñe hañ og marger Philesteis fyrefooruft, hieraf maa siaa, hvorsu Saurlif-nadur og adrar Odygder eijdeleggia þeirra Eiskendur. (Doom. 15. 16.)

90. Hvad er ad lesa um Elj?

Hañ var bæde Doomare og ypparste Prestur, eñ siner hañs voru vonder Skaalkar, hooria hañ þoo alldrej straffade so hart, sem þeir tiluñu, jafnvel þoo Gud advarade hañ þarum; hvorsvegna þeir fooruft fyrer Sverds

Eggium





Eggium i Strijdenu, og þar Elj feck soddan ad fretta, fiell hañ aftur a bak og Haalsbrotnade. (1 Samuel. 2 og 4.)

91. Hvør var sa sijdaste Doomare?

Samuel, eirn stoor Spaamadur Drottens, og froomur stioornare, eñ sem Syner hans efter hans Fraafall voru iller og Ogudleger þaa villdu þeir Israelitar ecke stioornast af þeim, helldur æsktu sier i Eftertijdene ad mættu stioornast af Konungum, i þessare þeirra bæn faň Drotten einga velþooknan, þofyrer ad yfferbevijsa þeim um Misbrukun þeirra frijvilia liet hañ smyria Saul til Konungs, yfer þaa. (1 Sam. 7 og 8 Cap.)

92. Hvad skaum vier af þessum Børnum?

Ad stundum fædast ill og Ogudleg Børn, af froomum og gudhræddum Foreldrum, þarfyrer skulu þeir ej spara siñ hirtingar vønd, ad ecke Drottens Reijde sijdan skal eydeleggia þeirra Børn þeim sialfum til hins stærsta Hugaraangurs. Ʒ sama maata byriar þeim ungu med þolenmæde og undergefne ad lata sig straffa fyrer þeirra aavyrdingar og aungan eigen ad þeinkia ad þau skule umflya Guds Straff, þegar þau sialf ecke Snua sier fraa sinu illu Siñeslage og vondumvana. (Ord. 23 Cap.)



93. Hvørier voru þeir þrijr Einvallds Konungar?

Þad voru Saul, Davijd, og Salomon, hvorier ed stioornudu i 100 aar yfer þeim 12 Kinkviislum Israels.

94. Skickade Saul sier vel?

J Upphafe var hañ froomur og luckulegur eñ sijdan efter Drottne Ohlijden, hañ sparade Konunga þeirra Amalekita, hvorn Drottenn baud honum ad eijdeleggia, og took sier fyrer ad offra, hvørsvegna Drottenn liet honum fyrer spaa, ad hans Afkvæme ecke skillde erfa Kongarijked efter hañ. (1 Sam. 11 Cap.)

95. Hvørnen geck þad hønum sijdan?

Honum vard stioornad af Ohreinum anda, so hañ oft og mørgum sinum hrasade, hañ offsookte Davijd, sem skillde stioorna efter hañ, og endelega myrte sialfan sig i Strijdenu mooте þeim Philesteis. Gud vard veite mig og sierhvørn fra Ogudlegu framferde, og gefe mier goodan og Saaluhiaalplegan Enda. (1 Sam. 15. 23. 31.)

96. Hvørnen Madur var Davijd?

Eirn froomur og gudhræddur Herra, hvor ed med einum Slaungusteine i helsloo hañ Risa Goliath. Hañ stioornade sijnu Foolke vel, og þvingade under sitt Herradæme þau umliggan-

liggande Lond. Af hans Psalmum maa ber-
lega sia, hvorsu angiætlega hañ hiellt sier i
Truñe til Drottens uppa Mesfia um hvorn
hañ spaade, og sem Drotten lofade ad' skillde
fædast af hans Sæde. (1 Sam. 17 og 2 Sam.
5. 8. Psal. 22 og 27.)

97. Fiell hañ i nockurn groofan Løst?

Pvi midur! hañ drigde Hoor med Bath-
seba, og sloo heñar Mañ ihel; hvert hañ sij-
dan ydrade og hardlega aklagade Synd sina
fyrer Drottne, lifde sijdan i Otta Drottens
og sañre Gudrækne. Hiervid advarast eirn
og sier, hvor sem þikest standa, hañ siaae vel
til, ad hañ ecke falle; so þienar og Davijds
Bænheirsla til Traustis og Hugsvolunar fyrer
þat, sem umvenda sier af ollu Hiarta. (2
Sam. 11. 12 Cap. Psalm. 51.)

98. Hvøriar sierdeilles araaser mætte
Davijd lijda?

Hañ mætte ossvoknum af syne Synum Ab-
salon, sem sookte efter ad skilia hañ vid Lijf
og Rijke, en Drotten gaf Davids Foolke Si-
gur, so Absalon took Flootta\u00f1, og mætte
hanga a Haarenu i eirnre Eijk, gegnumstun-
gen med 3 Spiootum, i þessare hans aunk-
vunar fullu Endalikt meiga þau Ohlijdugu
Born speigla sig, og lata af ollu Saurgu-



nar fullu Lijferne og framferde. (2 Sam. 15. 18 Cap.)

99. Hvør var sa þridie Eijnvallds Konungr?

Salomon Sonur Davijds, hvorn Drotten hafde prydd med miklum Vijsdoome, Æru og Rijkdoome, hañ elskade Drotten og uppbygde Mustered i Jerusalem, hvört hañ sijdan iñvigde med eirne heijdarlegre Bæn, og stiornade sijdan vel i læungan Tijma. (1 Kong. 3. 8. Cap.)

100. Hvørnen geck þad hønum tilsijdst?

Þær morgu heijdinglegu Hustrur sem hañ hiellt, umvendudu honum i hans Allderdoome til Afguda-Dyrkunar, hvorsvegna Drotten uppvakte marga Ovine aa moote hønum, sem tooku þañ mesta Hluta af Rijkenu fraa Syne hans Rooboam. So ad fraære 3029 var þvj Skift i 2 Konga-Rijke, nefnel. Jsrael og Juda. Gud gefe vorum Konungum og yfervolldum Rijkdoom og Speke, og vardveite þaa fraa ollum æraasum! og ad þeir meige stijra Londum sijnum og Rijkium i goodum Fride og Roo. (1 Kong. 11 og 12 Cap.)





# Pridie Høfud-Partur.

Hondlar um þaa fioordu þusund aratijd efter Skøpunheimsens.

101. Hvad er ad merkia a þessare þusund aratijd?

Fyrst Konungar i Israel og Juda stioornudu a eirnre Tijd, þarnæst þeir adrer stioornendur lñ til Herleidingareñar Tijma, og endelega gydingaña Frelse og þeirre Stioornendur iñtil Christi Fædingar. . .

## Sjette Capitule.

Konungar i Jsrael og Juda stioornudu a somu Tijd.

102. Hvørier voru Konungar i Jsrael?

| | | |
|---|---|---|
| Jeroboam 1., | Ahasia, | Sacharia, |
| Nadab, | Joram, | Sællum, |
| Baesa, Ela, | Jehu, | Menahem, |
| Simri, | Joachas, | Pekaja, |
| Omri, | Jooas, | Peka, |
| Achab. | Jeroboam 2. | Hoseas. |

Þesser



Þesser stioornndu i halfþridia hundrad aar yfer þeim 10 Ættkvislum Jsraels, og biuggu i Samaria, þesser voru þvi midur aller jller.

103. Hvad giørde Jeroboam sæ Fyrste?

Hañ Ottadest fyrer ad Foolked skillde falla fræ honum, og adhillast Konungana i Juda, þar sem þeir ærlega offrudu i Jerusalem, hvorsvegna hañ jñstiftade eina Afguda-Dyrkan af 2 Kælfum. Eñ Drotten liet Ogna honum fyrer eirn Spæmañ, sem sagde honum med samt hans Ættlide fyrer þeirra Eydelegging, hvort og so uppfylltest. (1 Kong. 12, 14 Cap.)

104. Hvad seigest um Kong Achab?

Hañ var sæ allra verste og þar hiæ dyrkade Afguden i Sidon; Drottning Jessabel liet griista Naboorh i hel, þvi hun villde hafa hans Vijngard, og þarnæst offookte Spæmañen Elias, sem advarada og æmynte þau, hvorsvegna þau urdu stroffud med Strijde og dyrre Tijd, Achab vard drepen i Strijdenu moote þeim Syrlendsku, og Jessabel vard kastad nidur af eijnu Vindauga, og gefen Hundum til Fædu, so og urdu aller þeirra Ættlider afmæder og eydelagder. (1 Kong. 16 til 22 Cap. 2 Kong. 9, 10 Cap.)

105.

### 105. Hvad er ad lesa um Spámanen Elias?

Hañ mætte Offooknum og aráasum af Drottning Jessabel; En Drottenn bevysade honum þañ sierdeiles stoora Velgiordning og liet Hrafna bera honum Kiot og Braud i Hallærestydeñe. Drottenn uppvakte, fyrer hans hond eirn framliden Dreing i Sarepta, og liet Eld falla af Himnum og uppbreña hañs Offur, til Vitnesburdar um, ad Drottenn alleina var Gud eñ eingen añar; hvors vegna Elias liet drepa alla Baals Presta, og endelega vard þesse true Guds Sendebode til Himens uppnumeñ. Gude sieu eilifar þacker, ad þar er bæde Hiaalp og betra Lijfs ad vænta fyrer þaa enu Froomu og Gudhræddu. (1 Kong. 17 til 9 Cap.)

### 106. Var þar nockur stoor Spámadur efter Elias?

Þad var Elisa, sem lijkaso mætte stoorum Offooknum og aráasum; Nockur Ungmeñe spottude hañ, og urdu þar fyrer i sundurrifen af 2 Biornum. Gud giorde fyrer hañ adskilianleg Kraftaverk, hañ uppvakte af Dauda eitt framlided Barn i Sunem. (2 Kong. 2 til 4 Cap.)



107. Hvad giørde Jehu?

Efter guddoomlegre Befalningu eijdelagde hañ og afaade Achabs ættlide og Baals Musstere; fyrer soddan hans Røksemé hiet Drotten ad hans Syner i fioordu Ættkvisl skildu sitia aa Israels Throne, þoo æsde hañ Afgudarije lijkasem hans Formeñ giørdu; eñ Drotten er eck anægdur med haalfa Þioonustu, hañ vill hafa þad heila Hiarta, ef vier eigum ad þooknast honum. 2 Kong. 10 Cap.)

108. Hvør stioornade leingst af Konungunum i Israel?

Jerobooam sa añar stioornade i 41 aar, under hvørium Israelitarner høfdu Roo og Velstand, Eñ þar vid fiellu til Vellystinga og Drikiuskapar, hvørsvegna Drotten liet þeim fyrerspaa um þeirra Undergaang. So þegar Kooonguren var andadur byriadest þar stoor Ofridur og tvjdrægne i Rijkenu; so er og Ogudlegt athæfe eirn fyreburdur uppaa eijdelegging og Undergaang. (2 Kong. 14 Cap.)

109. Hvad fyrer eirn Spaamadur lifde aa þessare Tijd?

Joonas, sem skillde kungiora Ninivesborgar moñum, þeirra yferhaangande Straff; hvørt hañ ecke giørde helldur took flottan stiooleides og aa Havenu mætte sterkum Stormé;

me, so honum vard utkastad og eirn Hvalfiskur kom og svelgde hañ lifande, i hvorium hañ var 3 Daga og 3 Nætur, hañ er ein fyrer mindan uppa Jesu Christi Grefran og Uppristu. (Jonæ 1 Cap. Joh. 3 Cap.)

### 110. Hvør var sa seinaste Konungur yfer Israel?

Þad var Hoseas, hvor ed ihelsloo siñ Formañ, og sydan efter vard yferuñen af Koong Salmanar, hvor ed efter Drottens Ognan burtfærde Israelitaña fangna til Assyrien, og i þeirra Stad iñfærde nockra af synu eigen Foolke i Israels Land. Same Heydinge villde bæde dyrka Gud og lyka so sina Afgude; a soddan falskere og blandadre Tru hefur Drotten aunga Velþoknan. (2 Koong. 17. Matthæi 15 Cap.)

### 111. Hvørier Koongar stioornudu i Juda medan Israels Rijke stood vid Makt?

| | | |
|---|---|---|
| Rooboam, | Joram, | Amasia, |
| Abia, | Ahasia, | Usia, |
| Assa, | Athalia, | Jotham, |
| Josaphat. | Jooas. | Achas. |

Þesser med þeirra Efterkomurum voru aller af Davijds Ættkvysl, efter Fyrerheitum Drottens. (1 Koong. 11 Cap.)

